# Andlig ræda

út af evangelio þess 26ta sunnudags eptir trinitatis, hjá Matth. 11, 25—30.

Allar skynsamar verur hafa einhvern tilgáng í öllu því, sem þær fyrir sig taka. En eptir því hlýtur tilgángurinn ágætari ad vera, sem stærri skynsemi og betri vilji er hjá þeim, sem fyrirtækid byrjar. Gud er sú vísdómsfyllsta og heilagasta vera, þar fyrir hlýtur þá tilgángur hans verka ad vera sá allra besti, og honum verdugasti. Hvern tilgáng Gud hafi haft med sköpun allra hluta í öndverdu, um þad hefur mannligri skynsemi ekki vel komid saman vid sjálfa sig. Spekíngurinn Plató áleit, ad Guds tilgángur í sköpunarverkinu hafi verid auglýsíng gædsku hans, edur uppfyllíng þeirrar girndar, ad meddeila af sinni farsæld ödrum verum út frá sér. En Aristóteles álytktadi, ad tilgángur hans verid hefdi hans eigin dýrd. Svo viturliga dæmdu þessir heidnu menn eptir náttúruljósinu einu. Kristnir færdu sídan lærdóma þessa inni sína skóla, og gjordu lokfins þrætu úr því, sem hvorttveggja réttskilid gat verid Gudi verdugt, þar heilög ritníng sannar þennan tilgáng Guds í hvorutveggja tilliti. Því eins og Davíd (Sálm. 8, 5) sýnist álíta sköpun allra hluta skeyja

mannsins vegna, og Páll (1 Cor. 3, 22) segir, að þeim trúuðu heyri allir hlutir til, svo sem þeir séu þeirra vegna skapaðir, svo segja líka sömu Guðs menn, nefnil. Davíð (Sálm. 19), að „himnarnir framtelji Guðs dýrð;“ og Páll (Rómv. 1) hermir: „að af sköpun allra hluta megi þekkja makt og speki eilífs Guðs;“ þá sjá menn hér af, að þessi áminnsti tvøfaldi tilgángur er Guði samverðugur, þar heil. ritning tilleggur honum hvorttveggja.

En hvað nú í þessu tilliti segist um sköpunina, það sama má og segjast um endursköpunina, eður endurlausn mannkynsins fyrir Jesúm Krist; því sjálfur Guðssonur segir, að sinn faðir hafi hana undirbúið, af því hann elskaði heiminn (Jóh. 3), en Páll segir hann hafi gjört það til lofs sinni dýrðarligu náð (Eph. 1). Hann sama vitnisburð ber og Guðssonur um sjálfan sig, svo sem endurlausnarinnar framkvæmara: að hann sem góður hirðir hafi gefið sitt líf út fyrir sína sauði (Jóh. 10), af því hann elskaði þá, og vildi þeirra eilífu velferð; en fyrir það sama segir Páll (Phil. 2), að Guð hafi gefið sínum syni þá tign, sem er yfir öllum tignum, svo að fyrir Jesú tign skuli öll kné beygja sig, bæði þeirra, sem á himnum, og á jörðu og undir jörðunni eru.

Svo varð þá tvøföld afleiðslan og undireins tilgángur Guðssonar holdtekju og endurlausnarverks, nefnil. á mannanna síðu sáluhjálp þeirra sem á hann trúa, en á sjálfs hans síðu dýrð hans fyrir þetta ómetanliga miskunarverk, þar hans himneskur faðir hefur nú, eptir sjálfs hans bæn (Joh. 17),

allareidu dýrdligan gjört manndóm hans, med sömu dýrd, sem hans guddómur hafdi hjá honum haft, ádur enn veröldin var sköpud, þad er: í frá eilífu. Þennan sama áduráminnsta tvöfalda tilgáng endurlausnar-verksins má og svo draga út af Jesú ordum í þessa dags evangelio; þar hann bædi talar um þá makt, sem sér gefin sé yfir öllum hlutum, og líka í ljósi lætur þá innilígustu girnd, til ad gjöra manneskjur farsælar, bædi í tíma og eilífd. En hér fyrir utan eru ord vors elskuverda frelsara i evangelio yfirmáta merkilig; því þau innibinda í sér — ad mér finst — þessi þrjú höfudatridi, nefnil. vitnisburd hans sjálfs: 1) um náttúru sins evangelii; 2) um hátign sinnar persónu; og 3) um ríkdóm sinnar miskunar. Og þau sýnast töluд af Jesú med stakligri hjartahræríngu, verkadri af þessu þrennu: fyrst af innilígri gledi yfir evangelii byrjudu útbreidslu; þarnæst af sannri tilfinningu sinnar eilífu guddómshátignar; og lokssins af brennandi laungun eptir því, ad manneskjurnar vildu sér nád hans i nyt færa. Viljum vér þessvegna þetta vors heil. texta mikilvæga innihald framar hugleida, hvar til sjálfur Gud virdist oss nádarsamliga ad styrkja, svo tilgángur hans elsku, vor eilíf sáluhjálp, og tilgángur hans dýrdar, ad hann verdi sem best af oss heidradur og vegsamadur, þess framar á oss og hjá oss náist og uppfyllist, bædi í þessari og eptirkomandi veröldu. Amen!

---

Það 1ta höfuðatriði, sem eg álit að innibindist í vorum heil. texta, nefnil. hvilik Jesú evangelii náttúra sé, sýnir Jesús sjálfur, með því hátíðliga þakklæti, er hann — sem Guðssonur og Messías — framber fyrir sinn himneska föður, fyrir þess allareiðu byrjuðu glediligu opinberun og útbreiðslu. En í hverju tilliti framber hann þá þetta þakklæti fyrir opinberan evangelii? svar: ekki einúngis í tilliti til þess opinberunar í sjálfri sér, heldur í tilliti til þess einstaka og sérliga máta, sem Guð brúkaði við þess opinberun, nefnil. þess: að það var opinberað smælingjum, en dulið fyrir spekíngum. Hvar af á vissan hátt sjást má náttúra evangelii, hversu hún er sérlig og fráleit annara mannligra vísinda náttúru. Því nær einn nýuppkominn lærdómur skal prófast og meðtakast, þá er hann ekki fyrst framsettur fyrir fáfróða menn og vesæla, heldur fyrir vitra, lærða og mikils málsmetandi. Því við þeirra samsinníngu fær lærdómurinn því meira álit, og er tekinn trúanligri af þeim fáfróðari. En Jesú evangelio er allt öðruvísi háttað. Til að rannsaka og meðtaka þess sannleika dugir eingin manulig skynsemi, lærdómur og vitska einskostar. Sá lærðasti maður er lítt betur fær til, að útskýra þess leyndardóma, á hverjum það bygt er, heldur enn annar ólærður, gæddur frómu og sérvitskulausu skynbragði. Því hér til útkrefst einúngis: fullvissa um lærdómsins uppruna, að hann sé frá Guði; auðmýkt hjartans fyrir hátign þess, sem lærdómurinn er kominn frá; undirkastan sinnar eigin takmorkuðu skynsemi undir Guðs eilífa visdóm; upptendran viljans af þeim heilaga anda lærdómsins, til að elska lærdómsins höfund, fylgja lærdómsins

sidaligu reglum, og fadma ad sér lærdómsins sæluríku fyrirheit. Í einu ordi: til ad taka á móti evangelio, útkrefst trú, þad er: audmjúk, vonarfull, þakklætisrík og fagnandi samsinning þessa blessada lærdóms. En til ad vera gæddur þvílíkum þeinkingarhætti, hjálpa hvorki mannlig vísindi né veldi, heldur adeins frómt og gudhéidrandi hjartalag. Já hvad meira er: ad svo sem mannlig vitska fædir opt af sér sérvitsku, sérvitskan grubl, grublid efasemd, efasemdin vantrú, svo er mjøg hætt vid, ad mannlig vitska — búi hún ekki í þvi audmjúkara og frómara hjarta — setji einslags hindrun í veginn fyrir evangelii móttøku, og vekji í sálunni vidbjód fyrir þess einfaldleika, en kulda fyrir þess órannsakanligleika. Sama er um útvortis stóra lukku ad segja, innifalda í metordum, audæfum, edur hverju ødru; hún er hentugt eldsneyti þess medsædda drambsneista, er býr í sérhvers manns sálu; hver, eptir því sem hann framar glædist, glepur sjón trúarinnar — þó annars nokkur væri — á þeim himneska lærdómi; deyfir þær tilfinningar í sálunni, sem fæda af sér þá sønnu audmýkt fyrir Gudi; og kælir alla girnd til þeirra hluta, sem eru andligir, ósýniligir og eilífir. En þvílíkt hugarástand er þó hid óhæfasta til þess móti evangelio ad taka, hvers náttúrá svo alvarliga útkrefur trú, audmýkt og kærleika til Guds í mannsins sálu. Hversu vísdómsliga og forsjálliga var þad þessvegna — eins og allt annad, — gjørt af lifanda Gudi, ad láta ekki evangelii lærdóm fyrst bodast þvílíkum mønnum, sem druknir voru af heimspeki, heims makt og heims munadi. Þessara hjørtu vóru sá óhæfasti akur, til ad sá þessu himneska framanda sædi í, medan þad ennú var

svo sem óblandvañt, og hafdi hvergi rætur fest í heimi þessum. Hefdi Guð byrjað med evangelií bodskap medal þessháttar fólks, mundi það máske aldrei hafa fest rætur í heimsins akri, heldur nýsáð verid strags fótum trodið og foraktað af heimsins stoltu og sællífu sérvitsku, og þessvegna allt hold mátt deya í sinum syndum. Eda vita menn ekki hvernig gengid hefur til í heiminum, enda eptir það evangelii lærdómur var þó ordinn sem landfastur manna á medal; hvernig, segi eg, að mannlig speki og makt hafa rétt sem gjørt samtøk á móti honum, til að afmá hann og uppræta, ef moguligt verid hefdi; þó tilraunir þær hafi til ónýtis ordið, yfir það heila að segja, søkum þess hans grundvallan var svo sterk og óbuganlig ádur ordin. Af þessu sjáum vér vísdóm þeirrar eilífu forsjónar, að opinbera ekki lærdóm þennan í fyrstu fólki því, hvers hjarta var mest fullt af því sem honum mest mótistriddi; þar það verid hefdi eins óforsjálligt, sem að vilja sá til hveitis á hellubjargi, edur á medal þyrna. Þessvegna var það vísdómi Guds líkast, að velia þá jørdu í fyrstu fyrir útsædi sitt, sem minnstan óhæfiligleika hafdi móti því að taka, og í hverri líkligast væri, að það með góðri umhirdingu feingi rætur fest. En eptir henni var sist að leita í hjørtum þeirra vitru og voldugu, heldur miklu framar þeirra einfoldu, frómu og undirþrykktu; það er þeirra, hjá hverjum hverki villuljós veraldar speki né mokkvi heimselsku gæti mjøg fyrirmunað þeirri himnesku sannleiksfólu að útbreida sína fyrstu geisla.

Af þessari orsøk þakkar Jesús Kristur í evangelío sinum himneska Fødur svo hjartanliga fyrir, að hann svo hyggiliga rádstafadi þeirri fyrstu evangelii

pløntun, að hann valdi til þess framar hjörtu þeirra vesælu, fátæku og fyrirlítnu, enn hinna stoltu og forhertu veraldar gæðinga; hjá hverjum það í fyrstu hefði aldrei getað rætur fest, og þessvegna þá hinum øðrum orðið framvegis fyrirmunað, að njóta þessarar blessunar. Hvert á móti, þegar það eitt sinn hafði getað læst sig inn í hjörtu þeirra, sem þess meðtækiligastir voru, svo þessi himneska lífsjurt var orðin sem innlend í heiminum, voru miklar vonir þess, að hün mundi þá aldrei framar upprætt verða, heldur jafnvel æ meir og meir breiða sig út frá þeim friðsamari støðum til hinna ófriðsamari, hvað og svo reynslan, fyrir Guðs náð, sýnt hefur; uns hün loksins, með tímans fyllingu, græðir sig svo út, að heimurinn allur verður blómligur Guðs akur, er þykkvarinn stendur af liljum réttlætisins, akursins herra til æru og dýrðar. Þetta allt fyrirsá nú sá blessaði evangelii høfundur, Drottinn Jesús Kristur, og þessvegna gleðst han svo hjartanliga í anda yfir þessu Guðs verki, er losaði svo ríkugligri uppskeru á sínum tíma. Svo var þá evangelium fyrst boðað þeim ólærðu, fátæku og undirþryktu; eður hvílíkir voru sjálfir Jesú Krists postular? Voru þeir ekki ólærðir og fátækir almúgamenn? og hvílíkur var og svo mikill fjøldi Jesú fyrstu áhángenda. Þar var þó nóg vel á lærdu og mektugu fólki á þeirra døgum; hjá Grikkjum og Rómverjum var bæði stór vísdómur og stór makt; og hjá Gyðinga høfðíngjum einskonar guðvísi og trúrækni; en þetta hvorttveggja þótti þó Guði, á sinn hátt, óhentug meðøl til að styrkja evangelii innfærslu í heiminn, sjálfsagt vísdómur og makt heiðingjanna, sem fullt var af stolti

og veraldligum vellystingum, þeim verstu óvinum Guds nádar í Kristi, enda ogsvo gudvisi og trúrækni Gydinga, ad því leyti sem hún framar stefndi til útvortis gudsdýrkunar med ceremonium og jafnvel mannasetníngum, og þar út af fljótandi hégómligu trausti á sitt eigid réttlæti, sem er einhver hin skadligasta stífla móti evangelii verkun, eptir þess sønnu náttúru, mønnunum til sáluhjálpar. Og — hvert skyldi þá Gud snúa sér med sitt evangelium? Hverjum skyldi lærdómurinn út af Jesú Kristi, og um Guds nád í honum, fyrst verda bodadur? Ad sønnu Gydingafólki, eptir spádómunum; en þó einkum þeim manneskjum medal þess, sem minnst vóru fángadur af innbirlíngum um sitt eigid réttlæti, og af trausti á þad sama; já øllum þeim, sem mest fundu til síns andliga volædis, fyrir Gudi; nefnilega til þess, hversu þeir af náttúrunni voru bædi blindir og vondir; blindir, í því ad þekkja ekki, hvad til síns fridar heyrdi; en vondir, í því ad vilja ekki þyggja þad, sem þeim þó mátti ad bestu verda. Þeir sem nú til þessa fundu, og voru ángrádir þar af, en húngradi þó og þyrsti eingu ad sídur eptir réttlætinu, þad er: sárlángadi eptir því ad geta lifad Gudi til dýrdar, allir þessir, segi eg, er svoleidis sinnadir vóru, þeir vóru hæfastir til, ad medtaka Guds nádarbodskap, því hjørtu þeirra voru best løgud, til ad gefa rúm hjá sér þess sáluhjálpliga krapti, og bera af honum ávøxt. En øllum ødruvísi sinnudum var ekki til neins í fyrstu þennan sannleika ad boda, því hann hefdi annadhvort ordid þeim til hneigslis, sem Gydíngum, edur ad heimsku sem Grikkjum, og hlotid því af þeim forsmádur ad verda. En svo sem náttúra evangelii var

á þeim tímum, svo er hún eins enn í dag. Eingin stolt og sérvitur sála getur fremur nú enn þá veitt móttöku Jesú evangelío; og ekkert hjarta, sem drukkid er af heims makt og munadi, fær hluttakandi ordid Guds nádar í Kristi á þessum dögum framar enn hinum. Nei! þess framar sem einn ætlar sér med mannligrar vitsku augum, ad skygnast inn í leyndadóma Gudsríkis, þess óhæfari er hann til ad þekkja þá; því hvar sem holdlig skynsemi drottnar, hefur trúin eingan stad í sálunni; því sá sem eingu vill trúa, nema því hann sjer og skilur, trúir loksins eingu; því "trúin, segir ritníngin, er sannfæríng þeirra hluta, sem madur ekki sjer" né skilur, en ekki hinna, sem madur bædi skilur og sjer; þessvegna getur slíkur aldrei neina evangeliska trú haft, án hverrar þó ómögulígt er, Gudi ad þóknast. Sama er um þær manneskjur ad segja, sem elska heimsins munad og metord, og sokknar eru annadhvort í búksorg edur bílífi, þeim er líka svo hreint ómögulígt ad taka á móti Jesú evangelío, medan í því ástandi eru, og þær taka ekki sinnaskipti; og þó þær sýnist taka á móti því eptir bókstafnum, taka þær samt aldrei á móti því eptir andanum, svo þeim verdur þad ekki nema til fordæmingar; því bókstafurinn deydir, en andinn lífgar. O hversu vesælar eru þá allar holdliga sinnadar manneskjur! fyrir þeim er byrgdur brunnur lífsins, sem í evangelío er, svo þær fá ekki bergt af honum þad lifandi vatn, og mega þessvegna máske deya í eilífum þorsta. Því hvernig kann Gud sjálfur, sem bannar ad kasta perlum fyrir svín, edur ad gefa hundum helgidóma, ad gjöra þad, sem hann ödrum bannar? Nei, slíkt er ekki þægi-

ligt fyrir honum! Hvert á móti er það, eins og Jesús segir, þægiligt fyrir honum, að láta smælingjana, það er þá, sem ekkert þykir koma til sinnar eigin vitsku, eigin æru, eigin ábata og eptirlætis, en leita allrar sinnar upplýsingar, sóma og sælu i Guðs lifanda orði; það er þægiligt fyrir honum, segi eg, að láta þvílíka heyra evangelíi náðar-raustu í þeirra hjörtum, formerkja þess guðdómliga krapt, og smakka þess himneska sætleika, vegna þess að evangelii náttúra á svo vel við þeirra náttúru, eins og gott sæði á við góða jörðu, hvar það getur blómgast og ávöxt fært. Og á þennann hátt er það, sem vor Jesús lýsir náttúru evangelii í vorum heilaga texta. En hversu að hann í þeim sama,

I 2an máta, lýsir eðli og hátign sinnar eigin persónu, siest fyrst af þessum hans orðum: "allir hlutir eru mér í vald gefnir af mínum föður!" Þessi orð lykja í sér stóran leyndardóm! Hvernig kunni Guð að gefa nokkrum vald yfir öllum hlutum, sem þó vill eigi gefa sína dýrð nokkrum öðrum? Eða — hættir þá Guð að skipta sér af stjórn hlutanna, og lætur annan gjöra það fyrir sig? O! það stríðir þvert á móti skynsemi og ritningu! Móti skynseminni; því hún getur ekki öðruvísi ímindað sér Guð, enn sem eina óaflátanliga verkandi veru, hverrar almætti aldrei eitt augnablik yðjulaust sé; eins stríðir það móti ritningunni; því Jesús sagði eitt sinn: "Minn faðir verkar allt hingað til" (Jóh. 5); það er: hann hefur aldrei látið og lætur aldrei af, að verka í náttúrunni. Þar fyrir hlýtur þá sá, sem vald hefur yfir öllum hlutum, að vera sjálfur Guð, og einginn getur það vald haft né brúk-

að, nema Guð alleinn. Þar fyrir er þá Jesús sannur Guð, þar einginn getur haft vald yfir öllum hlutum, nema Guð einn. En — hvernig kemur það þá til, að Jesús segir: að þetta vald sé sér gefið? Eins og hann hafi ekki haft það í frá eilífu? Það er ekki torskilið, þegar maður ímyndar sér, í hverju standi Jesús var þegar hann talaði orð þessi. Hann talaði þau ekki einúngis sem Guð, heldur sem maður og Guð, hverra beggja náttúrur voru í hans einu persónu sameinaðar. Þessvegna var þetta vald yfir öllum hlutum hans manndómligu náttúru svo gott sem gefið af þeirri guðdómligu, sem þetta vald í frá eilífu háft hafði. Sökum þess gjörði hans manndómliga náttúra gjöfina sanna, en sú guðdómliga gjörði hana möguliga. Það er: hefði Jesús ekki verið Guð, undir eins og hann var maður, kunni hann ekkert að gefa; en hefði hann ekki verið maður, undir eins og hann var Guð, kunni hann ekkert að þyggja. Hversvegna að þessi Jesú orð sanna þá kroptugliga hans guðdóm og manndóm undir einni persónu; hvern vitnisburð hann hefur um sjálfan sig borið optar enn í þetta sinn, sem textinn umgetur. Hann brúkaði þennan sama eður líkan talsmáta, þegar hann gjörði lærisveina sína út með kristniboðið eptir sína upprisu; því þá lýsti hann því líka svo: "að sér gefið væri allt vald bæði á himni og jörðu" (Matth. 28). Sama vitnaði Jóhannes skírari um hann fyrirfram (Jóh. 3, 31); líka svo Páll postuli til Korintumanna (kap. 15, 27), og til Ebreskra (kap. 2, 8); hverra báðir byggja vitnisburð sinn á Davíðs orðum (Sálm. 8, 7). Svo er þá vitnisburðar beggja testamentanna um Jesú makt

aldeilis samhljóda, midt í því Jesús sjálfur stadfestir þann sama, sem sagt hefi, bædi í vorum heil. texta og vidar. En þessu næst lýsir Jesús hátign sinnar persónu med þessum ordum: "Einginn þekkir Soninn, nema Fadirinn, og einginn þekkir Fodurinn, nema Sonurinn, og þeir, hverjum hann hefur viljad þad opinbera." Hér vottar Jesús ekki ad eins hátign sinnar persónu, heldur og hennar óra sakan ligleika; þar hann segir, hún sé þvílík ad hátign og edli, ad eingin Guds skopud skepna geti hana fyllilega þekkt, já einginn nema alvitskan allein, þá sýnir þad undir eins, ad í henni sé nokkud aldeilis óransakanligt, óendanligt, og allan eingla og manna skilníng yfirgángandi. Því svo sem einginn þekkir Gud fullkomliga, nema Gud sjálfur, svo heldur einginn Guds eingetinn son, þar í honum býr oll fylling guddómsins. Þetta er einhver sterkasta roksemd fyrir Jesú guddómi. Því svo sem Gud væri ekki Gud, ef vor skynsemi gæti þekkt hann ad ollu leiti, svo er Jesús þá sannur Gud, fyrst eingin hvorki eingla né manna skynsemi, er svo háleit, ad hún þekkt geti hans persónuliga edli fullkomliga. Því hver t. d. skilur Sonarins eilífu fæding af Fodurnum eptir hans guddómi; hver guddómsins sameiningu med manndóminum í hans einu persónu; hver hans persónu ósjofnustu eiginligleika, í hinni somu sameinada: almættid med vanmætti, vanmættid med almætti; lífid med daudanum, daudann med lífinu; allra stærsta heilagleika undir allra stærstu sok; já allra stærstu sok ad ósfertum allra stærsta heilagleika? O hvad vill mannlig skynsemi voga sér ad skygnast inní þetta óransakanliga djúp! Þad er fyrir oss sett til addáunar

og tilbeiðslu, en ekki til rannsóknar og umdæmis. Mannlig skynsemdaraugu eru eins ófær til að skoða þennan leyndardóm, eins og líkamlig augu til að horfa miðt í sólina, þegar hún skín sem skærast á heiðríkum himni. Hvortveggja augun formyrkvast og verða sjúk, ef þau voga sér skoðan þessa. Sólarinnar varmi og birta, sem hún breiðir út um náttúruna, gleður mig og endurnærir; en að stara í hana sjálfa, og ætla þarmeð að rannsaka hennar eðli, það er mér bæði óþolandi og ógjörligt. Jesú náðar varmi og birta, sem hann — þessi sól réttlætisins — útbreiðir á allar síður frá sér í kristiligri kirkju, lífgar og gleður sálu mína; en að stara með forvitinnar skynsemdar augum á þessa Guðs dýrðar sólu, og ætla sér þarmeð, að rannsaka og skilja hennar innvortis eðli, er dárligasta og óheillavænligasta fyrirtekt. Því ef fyrirboðið var, undir lífsstraff, að skygnast inní þá jarðnesku sáttmálsörk forðum — af hverju Bethsemítar drukku — hvernig mun það þá leyfiligt, að skygnast inni þá himnesku, af holdligri forvitni? Mun það ekki kosta lífið? já, lífið að eilífu? Skammast má þá sú mannliga skynsemi sín, sem ei vill halda það fyrir satt, er hún eigi þekkir; eða mun hún ætla sér að skilja það, sem einglarnir sjálfir ekki skilja; en hafa þó eptirlæti af að ígrunda og skoða. Svo er þá Jesús Föðurnum jafn, fyrst einginn þekkir Soninn nema Faðirinn, og einginn þekkir Föðurinn nema Sonurinn; það síðara sannar Jesú alvitsku, það fyrra hans persónu óendanligleika; já, þessa eiginligleika — alvitsku og óendanligleika — sem eingum geta tilheyrt, nema þeirri einu æðstu veru; og þar sem ekki getur verið til nema einn óend-

anleiki, svo hlýtur þá vera Faðir og Sonar að vera ein og hin sama. Sjá! hér hofum vér þá hátídligan vitnisburd sjálfs Jesú um fleiri persónur í einni guddómligri veru! Og hvad þurfum vér þá framar vitna vid, þar vér sjálfir heyrum þad, svo gott sem af hans eiginn munni! Nú þó einginn þekki Guds veru, nema Gud einn, fullkomliga, þá þekkja þó sumir af monnunum hann betur enn sumir, en sá mismunur þeirra þekkingar er annadhvort náttúru- edur nádar-gáfna ávoxtur, edur hvorttveggja. Sú fullkomnari þekking, sem einn hefur um Gud framar odrum, af náttúrugáfum einum, verkar næsta litid til mannsins sáluhjálpar; og í rauninni kemst sá gáfu-rikari ekki ollu nær afgrunni guddómligrar veru, enn sá fákjænari; einúngis liggur þar nokkud minni skuggi yfir afgrunni þessu, fyrir hins hugskotssjónum, enn þessa. En sú þekking Guds, sem nádin veitir, leidir mann til eilífs lífs; hver, þó hún ekki gjori veru Guds manninum skiljanligri enn ella, gjorir hún hana þó svo yndisliga og blída í sálarinnar augum, ad hún uppkveikir í hjarta manns innilíga elsku til Guds, yndi í Gudi, traust á Gudi, og umgeingni med Gudi. Og þetta er nú opinberan sú, sem Jesús, í vorum texta, segist vilja veita sumum, svo þeir þekki sinn fodur. En þá er spursmál: því vill hann þó ekki ad allir verdi sáluhólpnir? Eda geta þeir ordid þad án hennar? Vissuliga vill hann allra sáluhjálp! En allir vilja ekki þessari hans opinberun taka; og þeim vill hann hana þá ekki á medan, vegna síns réttlætis, veita. Og eru þetta helst þeir, sem uppá sínar eigin náttúrugáfur mest stóla, þeir laun-stoltu vitríngar veraldarinnar, sem ádur er umtalad.

En ef sú fullkomnari Guds bekling framkemur af náttúru- og nádar-gáfum sameinudum, þá verdur hún ad vísu ekki sáluhjálpligri sjálfum þeim, er gáfurnar hefur, fyrir þad, en verdur þó kannske uppbyggiligri ødrum; því þær geta þá gefid af sér þess skærari ljós, til upplýsíngar annara manna sálum. En þeir lukkuligu, sem þessarar opinberunar Guds virtir verda, og hennar eru medtækiligir, finnast ad vísu helst medal þeirra, sem Jesús í textanum smælíngja nefnir, opt svovel í tilliti til þeirra útvortis sem innvortis kjara, en sjálfsagt í tilliti til hinna sídari, og þessum er þàd, sem Sonur Guds audsýnir stakliga ríkdóm sinnar miskunar, midt í því hann í ljósi lætur brennandi laungun eptir því, ad syndugir menn færi sér í nyt hans nád. Og þetta er nú

Hid 3ja adalatridi rædu þessarar út af vorum heilaga texta, sem vér viljum stuttliga yfirvega. Þessu atridi til sønnunar eru þessi Jesú allranádarríkustu ord, sem í gudspjallinu standa: "Komid til mín allir þér, sem erfidi drýgid, og þúnga erud þjádir, eg vil ydur endurnæra!" Ef vér nú viljum réttiliga skilja, þá fyrstu adalmeiníngu þessara dýrmætu orda, þá vitum, ad Jesús taladi þau-vid fólk þad, sem var Gydíngakyns; en oss má kunnugt vera, hversu Gydínganna trúarbrøgd voru full af ýmsum vandasømum og þúngbærum setníngum og ceremonium, sem sumpart voru af sjálfum Gudi tilskipadar, og sumpart þar á ofan uppfundnar og álagdar af mønnum; hverjar sídarnefndu vóru jafnvel þúngbærari hinum fyrri. Undir þessu oki hlaut nú almúgi Gydíngafólks ad sveitast og þreytast; þar þad hét svo, ad menn med þessu móti hlytu ad útvega sér Guds hylli. En

af því hinn sanni trúarinnar andi var næstum því útdaudur medal fólksins, þá fundu samvitskur manna, — þeirra nefnil. sem ei aldeilis sváfu, — einga huggun edur rósemd af þessum útvortis þvíngunaræfingum; í einu ordi, þeir gátu einga fullvissu um Guds nád feingid í sín hjörtu med þvílíkum gudsdýrkunarmáta. Ut af þessu urdu margir hugsjúkir og stúrandi, þar þá samt annars húngradi og þyrsti (eins og Jesús í annad sinn til orda tók) eptir réttlætinu, þad er: sárliga lángadi eptir því, ad geta lifad svo réttferdugliga, sem Gudi líkadi. Þessara hugarfar þekkti nú Jesús Kristur; hann vissi vel, hvílíka samvitskuséríngu þeir höfdu ad bera; út af ótta fyrir því, ad þeir einganveginn væru í Guds nád, þó þeir bæru síg ad hlýda þessum lögmálsins og fedranna byrdarfullu setníngum. Þarfyrir ávarpar hann þá med áminnstum ordum, og býdur þeim í þessum sínum sálarvandrædum til sín ad koma, og lofar ad hann skuli veita þeim samvitsku rósemi, og kenna þeim þann rétta máta, ad leita Guds nádar og ödlast hana; því segir hann vid þá: "Takid uppá ydur mitt ok, og gjörist minir lærisveinar!" Svo sem hann skyldi sagt hafa: þér hafid hingad til borid eitt þúngbært ok, ekki adeins þeirra mósaisku helgilaga, heldur annad ennnú þýngra, hvert ydar lærifedur hafa á ydur lagt, med sínum eigin tilsetníngum; eg veit vel, ad þér undir þessu oki getid einga hugarhvild edur samvitsku rósemi feingid; þér erud eins, eptir sem ádur, óvissir um, hvert Gud vill vera ydur nádugur, edur ekki. Þetta veit eg alltsaman fullvel, og þekki glöggt hvad ydar samvitskur hafa ad bera. Eg vil nú leggja ydur gód rád: kastid þessu

manna oki af ydur og komid til mín, og takid uppá ydur þad ok, sem eg vil láta ydur bera, og giörist mínir lærísveinar; þá lofa eg ydur því óyggjanliga, ad ydur sálir skulu finna hvíld; já, skulu mega vera óhræddar fyrir Guds reidi, og fullvissar um hans nád. Því eg segi ydur þad fyrir saun: "ad mitt ok er yndælt og min byrdi létt." Meiníngin er: ad mínar lærdómsreglur, og adferd sú, sem eg vil kenna ydur, til ad ávinna Guds nád, er ekki eins og Farísearanna og hinna skriftlærdu, hverra lærdómur er svo þvíngunarfullur fyrir líkamann, og huggunarlaus fyrir sálina. Nei! mitt ok, minn kenníngarmáti og sídalærdómur er mikid mildur og áuægjusullur fyrir alla þá sem hann réttiliga skilja; og sú skyldubyrdi, sem eg álegg, er léttbær fyrir samvitskuna, því hún er grundvollud á trúnni og kærleikanum, allt í krapti minnar tilvonandi fridþægíngar mannkynsins vegna." Nú þó Jesús, sem eg sagt hefi, bydi þeim samvitskuþjádu manneskjum medal Gydíngafólks med svo hugarlátligum ordum, til sín ad koma, kann þó sumum ad hafa sú orvæntíngarpíla í brjóst flogid: "æ hvad skal mér svo vesælum og voudum á þessa stóra lærimeistara fund! Ef míns eigin fólks lærifedur — sem þó eru ekki nærri því eins heilagir sem þessi — ef þeir forsmá mig og mína líka, og vilja ekkert med mig hafa, segja eg sé einn af þeim blinda almúga, sem ekki viti logmálid, og sé þessvega bolvadur, þad er: makligur þess ad útskúfast bædi frá Gudi og monnum, — hvílíkan mun þá þessi sannheilagi lærimeistari Jesús álíta mig! hvert mun hann vilja nidurlægja sig til þvílíkrar einnar bolvunar makligrar skepnu,

sem eg er?" Þessum ørvæntingarþánka hjá þeim vesælu mannesfjum svarar Jesús undir eins fyrirfram með áminslum orðum, og kemur í veg fyrir hann, áður enn þeir sjálfir hreifa honum, svo hann ekki skuli aptra þeim frá, til sín að koma. Þó gjörir hann það sérdeilis með orðum þeim, sem hér á eptir fylgja, (þó flestir aðrir útleggi þau í øðrum skilningi): "eg em hógvær og af hjarta lítilátur." Svo sem hann skyldi sagt hafa: "óttist ekki, skammist yðar ekki til mín að koma, hvað vesælir og fátækir, hvað fáfróðir og einfaldir, já hversu stórsyndugir og sekir, sem þér eruð, og finnið yður að vera! Komið samt óhræddir til mín! eg er ekki eins og þeir stoltu lærifeður þjóðar yðar, sem forsmá þvílíkt fólk, og álita það útskúfunar verðugt, og þykir það óviðurkvæmiligt, og fyrir neðan sína virðingu og heilagleika, að tala eður fýsla nokkuð við þvílíkar mannesfjur; nei! eg er ekki þess sinnis, eg er **hógvær** og **lítilátur**, og það af **hjarta**, en ekki af yfirdrepskap, eins og hræsnarar. Eg tek gjarnan á móti slíkum vesælingum, sem þér finnið yður að vera; þeir eru mér hinir velkomnustu lærisveinar, og það fólk, til hvers eg í eiginligasta skilningi sendur er, og sem best not hafa mun af mínum lærdómi." Þessi eður þvílík skilst mér nú vera meiningin í áðursøgðum Frelsarans orðum; en ekki eiginliga sú, að hvetja menn til að læra af sér **hógværð** og **lítilæti**; jafnvel þó það sé ogsvo ein háleit skylda fyrir hvern einn kristinn mann í sjálfu sér.

Nú þó það fyrsta tillit í øllu áður framfærðu Jesú huggunarríkasta tali stefndi til þvílíks fólks meðal Gyðingalíðs, hvers samvitskur að sárliga þjáðar

voru, ekki einasta undir oki ceremoníulögmálsins, heldur miklu framar þeirra af feðrunum viðbættu setnínga, hverjar, svo óþarfar þær voru, vóru þó eingu að síður óbærilígar; þó nú, segi eg, að meiníng Jesú orða líti fyrst og fremst til þvílíkra, syrirmunar það samt einganveginn, að aðrir samvitskusærðir syndarar megi þau ogsvo til sín heimfæra, og af þeirra sælleika huggun inndrekka. Og þetta er því vissara, sem það er óyggjanligra, að Jesús var sendur, ekki að eins Gyðíngum, heldur og heiðíngjum, til að vera þessum sem hinum, ljós, vegur, líf og sannleikur; svo að öll — eður flest — þau orð, sem Jesús talaði við Gyðínga á sínum holdsvistardögum, megum vér; heiðíngjanna niðjar, og svo til vor heimfæra, og taka þau, eptir þeirra inníhaldi, oss annaðhvort til sannfæríngar, aðvörunar eður huggunar. Svo er það og um þessi Jesú blessuðu orð að segja, sem full eru af hinni allrasætustu og kroptugustu huggun fyrir allar guðliga ángurbitnar og sundurmarðar sálir, að þvílíkir mega þau með fögnuði til sín taka, og álíta þau svo sem við sig af Jesú munni töluð. Því jafnvel þó það gamla ceremoníu lögmáls útvortis ok, sem lá á herðum Gyðíngafólks, — en hverki gátu þó borið þeir né feður þeirra, — sé nú fyrir laungu burtu numið, og þar fyrir utan margar þær hégómligu og þvíngandi mannasetníngar, sem ekki einúngis í Gyðíngatrúnni á Krists dögum, heldur og einnig, sem kunnugt er, í þeirri papisk-kristiligu laungu eptir Jesú daga pláguðu samvitskur manna, þó — segi eg — að þessum okum sé nú aflétt, þá er þó eingu að síður það andliga lögmálsok enn nú til, hvers þúngi er hinum fyrri enda

þeim mun óbæriligri, sem þau fyrri okin gátu nokkurnveginn borist af einsømlum mannligum krapti; en þúngi þess andliga oks yfirstigur óendanliga lángt alla mannliga krapta og vitsku. Og ad létta þessu síduarnefnda oki á sálum manna, var höfudaugnamid Jesú tilkomu í heiminn. Hin fyrri útvortis okin voru og svo uppþeinkt til ad vera sem einskonar lækníngar vid hinu ødru, edur því andliga okinu; hvar af menn sjá, ad þeirra þúngi hlaut, í sjálfum sér, ad vera miklu léttbærari, enn hins. Nei, svo sem løgmál Guds er enn nú til í sínum fulla skuldbindanda krapti, og menn eru af náttúrunni skyldugir þad aldeilis upp ad fylla, jafnvel þó þeir af náttúrunni ekkert sídur geti, þannig er Jesús í heiminn sendur, ekki til ad leysa menn ad øllu frá þessu oki — hvad hlýdnina vid Gud snertir, — heldur til ad hjálpa þeim ad bera þad. En til þess ad njóta þessarar Jesú hjálpar, þurfa menn ad vera svo á sig komnir í sinni samvitsku, eins og Jesús lýsir þeim, sem hann í evangelío býdur til sín ad koma; þeir hljóta nefniliga ad vera: erfidandi og þúnga þjádir. Nú skiptast mennirnir í tvo hópa: sumir setja ekkert á sig þad andliga løgmálsins ok, sem af náttúrunni á þeim liggur, jafnvel slíta þad af sér, svo mikid sem þeir geta; þeir eru gladastir, þegar þeir yfirtroda Guds løgmál, og samvitska þeirra finnur ekkert af alvøru til synda sinna móti Gudi, óttast ekkert løgmálsins bannfæríngar, og lifa svo í sinu andvaraleysi edur forherdíngu blint áfram; þessir eru aldeilis óhæfir til Jesú ad koma; hann býdur þeim ekki heldur til sín sem þúnga þjádum, því heilir þurfa ekki læknarans vid; hvar fyrir ad ástand þeirra er

sem sofanda manns, hvers hús stendur í bjørtu báli allt í kringum hann, en hann hrýtur, fullur af sætum og táldragandi draumum, og veit því ekki fyrri til, enn að loginn hefur svo umspennt hann á allar síður, að honum er orðið ómøguligt að flýa. Sá hópur syndaranna, er þessum líkist, er þó mikið stór, eptir því sem af útvortis kennimerkjum dæmast kann; en hve ólukkuligir þeir allir séu, sem í honum staðnæmast, gefur jafnvel heilbrigð skynsemi að skilja. Þessir forblinduðu hafa ekkert gagn af áðursøgðu Jesú náðar tilboði, því þeir sofa svo fast; þeir heyra ekki, þeir vakna ekki, þó Jesús til þeirra hrópi, og þá dreymir svo sætt í sínu andvaraleysi, að sætleikurinn í þessu Jesú náðar ávarpi getur ekki svo tekið á þá, að þeir bregði blundi; og þó þeir eitthvað rumskist um stundar sakir, sofna þeir strags aptur. Hver eyru hefur að heyra, hann heyri! En Guði sé lof! þar er og svo til einn annar hópur — þó lítill sé — sem ekki er þessum líkur. Hverjum þá? þeim manneskjum, sem Jesús í evangelío til sín býður! meiningin er: það eru og nokkrar manneskjur til, hverjar, af því þær vita, að Guð, eptir løgmálinu, heimtar af sér fullkomna hlýðni til hugrenninga, orða og verka, en finna undir eins, hversu óendanliga lángt þær eru frá að uppfylla og geta uppfyllt þessa Guðs krøfu, þá setja þær þetta alvarliga á sig, og eru út af því mjøg ángurbitnar, hræddar og hugsjúkar fyrir honum. Þær finna til løgmálsins óbæriliga þúnga á sálu sinni, og undir eins til sins kraptaleysis, að geta borið hann; undir þessum þúnga stynja þær, gráta og andvarpa; vilja bera sig með hlýðninni að létta honum af sér, en finna að sér er það aldeilis ómøguligt. Nú

þegar þessir fá að heyra náðar ávarp Jesú í evangelio: „komið til mín — eg skal yður endurnæra!" þá verða þeir því eins fegnir, sem hinn húngraði saðningunni, hinn þyrsti svoluninni, og hinn til dauða dæmdi lífgjöfinni. Þeir koma því til Jesú, en koma þó hræddir og skjálfandi, vegna síns óverðugleika. Þá segir Jesús aptur til þeirra: verið ekki hræddir til mín að koma! mín hógværð og hjartans lítilæti bannar mér að forsmá yður, þó vesælir séuð; og ef þér værud ekki svo vesælir sem þér eruð, þá þyrftuð þér ekki svo minnar hjálpar við. Yðar eymd og armæða gjörir yður því mér að kærkomnari." Við þetta hughreystist þá þeirra hjarta, svo þeir taka inniliga glaðir móti Jesú náð. Hann slítur síðan lögmálsins fordæmandi ok af herðum þeirra, í krapti sinnar friðþægingar, og gefur þeim í staðinn það dýrðliga Guðs barna frelsi. Síðan segir hann til þeirra: „Nú þó eg hafi lögmálsins ok af yður slitið, svo það ekki fái þrykkt yður undir Guðs fordæmandi reiðidóm framar, þá gef eg yður samt ekki fría frá öllu oki. Nei! mitt ok hljótið þér nú aptur uppá yður að taka; hvert ef þér berið réttiliga og brjótið það ekki sundur, þá skal það í staðinn þvíngunar, gjöra yður endurnæringu, í staðinn örvæntingar, veita yður samvitsku frið. Þó ekki fyrir oksins sakir í sjálfu sér, heldur þessvegna, að svo leingi þér trúliga berið það, þá er það yður vitni þess, að þér eruð minni náðarstjórn undirgefnir, og undir eins hafið hlutdeild í því frelsi, frá lögmálsins fordæmanda oki, sem eg með minni pínu og dauða yður afrekað hefi." Þegar nú sannsýrandi manneskja heyrir þessi eður þvílík orð af Jesú í sálu sinni, gleðst hún að sönnu yfirmáta mjög af sínu feingna frelsi frá lögmálsins bölvan, og hefur mikið fúsliga skipti á þessum tvennslags okum, lögmálsins og evangelii, og geingur undir það síðara án alls undandráttar. Við þetta sama kviknar þá elskan til Jesú í hennar hjarta, svo hana lángar þá inniliga eptir, ekki einasta að geta staðfastliga notið hans frelsis frá lögmálsins oki, heldur og til að geta borið hans eigið ok eptir honum með sannar-

ligu trúlyndi. En — opt er ást upphaf sorgar — segja menn, og svo geingur það ogsvo líka til fyrir elskendum Jesú í sögðu tilliti. Af því þetta Jesú ok er ok sjálfsafneitunar og holdsdeyðíngar, en Jesús vill ekki fría þá frá holdligrar vanartar áströdu, meðan þeir í þessum heimi lifa, heldur að eins hjálpa þeim til, fyrir sinn anda, móti henni að stríða, þá vill þessi íbúandi vanart gjöra þeim stundum nokkuð örðugt þetta hans blessaða ok að bera; svo þeim á stundum finnst það sæta súrt, og það létta þúngbært. Þetta ollir þeim opt heimugligs harms og ángurs; því þess hjartanligar sem þeir elska Jesúm, því sárara tekur þá að móðga hann; en svo leingi þeir láta ekki náttúru sinnar vanart svo við sig ráða, að þeir hreint af ásettu og vísvitandi kasti Jesú oki af sér, (því gjöri þeir það, fellur undireins lögmálsins ok — með tvöföldum þúnga — yfir þá aptur að nýu); en svo leingi, segi eg, að það er ekki ödruvísi fyrir þeim, enn að þeim verður einúngis óvart að styggja sinn Jesúm, með því að gleyma stundum hans oki, þá missa þeir ekki hans náð og vináttu fyrir það, þegar þeir í hvert sinn flýa til hans með auðmjúkustu fyrirgefníngar bón á yfirsjón sinni, og taka fyrir sig endurnýaða kappsmuni, til kostgæfiligrar andligrar vareygðar. En hversu sæt sú endurnæring er, sem þeir njóta hjá sínum lausnara, þegar þeir, svo vel í sinni dagligu, sem fyrstu ydran, koma til hans ángurbitnir út af syndum sínum, og leita — eptir hans fyrirheiti — með brennandi bæn, hjá honum hvíldar og hugarrósemdar, verður varla með orðum útskýrt; það lætur sig betur finna enn frásegja. Guðs börn finna þá og sanna, hversu satt það er, sem Guðsmaður einn hefur sagt: að þekkja Jesúm gjörir mann vitrann; að elska Jesúm gjörir mann góðan; og að njóta Jesú gjörir mann farsælan!

Látum oss þá, kæra Guðs fólk! sæta þessu Jesú náðarríka tilboði: að koma til hans! Látum vorar syndir móti Guðs lögmáli gánga oss til hjarta! A meðan það skeður ekki, getum vér ekki á Jesú fund

komid. A medan hrygdin út af syndum vorum er eingin hjá oss, getum vér ekki smakkad þá sonnu gledi sem Jesús gefur. Medan syndin verdur oss ekki romm og beisk, getum vér ekki Jesú nádarsætleika notid; og á medan elskan til Jesú hefur ekki inntekid vort hjarta, verdur oss hreint ómoguligt Jesú ok ad bera, móti syndinni ad strída og sigurinn ad hreppa. En nær elskan til hans hefur fest rætur í sálum vorum, þá fyrst tekur oss ad finnast hans ok þægiligt, og hans byrdi létt; þá finnum vér til þeirrar endurnæríngar og hvíldar í hjortum vorum, sem hann í þessa dags evangelío fyrirheitir; þá teljum vér ekki leingur eptir oss þad strid, sem vér hér í heimi eigum undir hans merkjum ad heya; því vér vitum og finnum ad syndin er afmád fyrir hans réttlæti, eymdin sykrud af hans miskunsemi, og dauðinn sigradur, fyrir hans eiginn dauda; svo vér þorum þá med hugrekki ad gánga á hólm vid alla þessa vora óvini, fullvissir — ef vér ekki Jesúm vísvitandi yfirgefum — um sigurinn fyrir hans blód, hvert ed hreinsar oss af ollum vorum syndum.

Hann unni oss þá blessadur, ad njóta þeirrar sonnu hvíldar í sjálfum sér, medan lifum; þess fullkomna sigurs fyrir sjálfan sig, nær deyum; og sídan eilífrar sælu med sjálfum sér, eptir daudann! Veri hans nafn — ásamt hans fodur og heilags anda — lofad og vegsamad um allar aldir alda! Amen!

---

☞ Evangelisk Smárit, frá byrjun Nr. 69, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi. gefins þeim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfa ad senda þau edur flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim, sem þeir færa þau, ef vilja.

---

Kaupmannahøfn 1852. Prentad hjá S. L. Møller.